1834.

Stutt og einføld

# Avísan

um

Medhøndlan

# Qvef=Landfarsóttar,

af

## J. Thorsteinsen

Landphysicus.



Videyar Klaustri, 1834.
Prentad á opinberann kostnad,
af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

§. 1.

Qvef-Landfarsótt sú, er í næstlidinn Mánud hefir geingid og ennú geingur yfir Gullbríngu-sýslu, og nálægar Sveitir, er samkins og Qvefsóttir þær, er opt ádur hafa geingid hér yfir landid, þó er þessi mannskjædari enn þær opt hafa verid, helst á gamalmennum, edur þeim af ýngra fólki, er ádur hefir heilsuveikt verid, einkum brjóstveikt edur haft hefir einhverskonar innanmein, edur slæma adhjúkrun.

§. 2.

Sótt þessi byrjar gjarnast, sem adrar Qvefsóttir, med meiri edur minni höfudverk, magnleysi í líkamanum, lystarleysi, hósta og hæsi, er stundum kémur strax, stundum nockru seinna, á sumum med miklum höfudþýngslum, hlustarverk, edur hálsbólgu, hita edur kulda — stundum til skiptis — fljótum ædaslætti, verkjartökum, helst í brjóstinu, ósmecki í munni, seidíngs-verkjum hér og hvar um líkamann; med

hóstanum geingur optast upp nockur slímfroda, á sumum med graftarlit, og s: fr: Flestir hafa ecki øll þessi kénnimerki í einu, og sum aldrei; á sumum kémur eitt þegar annad batnar, margir fá og ecki meira af sóttinni, enn nockurn høfudverk, þýngsla máttleysi í kroppnum, sem endar med hósta og nockrum uppgángi, eptir því verdur ad hafa ýmislega medferd á sjúkdóminum.

§. 3.

Mestu vardar, ad géta ordid fyrí fyrir ad fá sjúkdóminn, og er þad sumum ómøgulegt, þó alla varúd vidhafi, en þó má mikid til þess gjøra ad varast hann, annadhvert ad fullu, eda svo, ad þarvid verdi lítid af honum, og er þad einkum og sérdeilis:

1° ad klæda sig vel, halda sér jafnheitum, hafa þurar og heitar fætur, og allann klæda adbúnad gódann.

2° Borda hóflega, og heldur léttan mat enn þúngan, drecka á kvøldin heitt thevatn af blódbergi eda heita mísu.

3° Drecka ecki mjøg áfeinga drycki, og jafnframt ecki Kaffe.

4° Halda maganum hreinum, og er því gott —þegar sóttin er að byrja—fyrir þá er enn eru frískir, annaðhvert að selja upp einusinni, ef túnga þeirra er óhrein, og sjúkdómurinn byrjar með lystarleysi, eða brúka eitt sinn búkhreinsandi meðal, sem einkarvel passar þeim, er áður að undanförnu er hætt við harðlífi.

5° Miklar næturvökur og erfiði um megn framm, skyldu menn varast, ef hjá verður komist.

§. 4.

Þegar menn hafa feingið sóttina, verður ýmislega með að fara, eptir sem henni er varið. Þeir sem ekki eru þýngra haldnir enn svo, að þeir hafa nockurn hósta—er þó ei hindrar svefnin—máttleysi, linleika og lystarleysi, en géta þó verið á fótum, þurfa optast eingin sérdeilis læknismeðöl önnur enn að þeir klæði sig vel, haldi sér jafnheitum á næturnar, borði lítið, drecki eitthvað heitt á qvöldum er þeir gánga til sængur (sjá §. 3.) brúki heitt fótabað á qvöldin, ef höfuðþýngsli eru nockur með, og varist að standa upp úr rúminu, þegar þeir eru mjög sveittir; varist harðlífi, sem opt má bæta með heimilisnjóla, annaðhvert blóðum hans, er meiga brúkast í graut á sama hátt sem kálblöð, eða af

vatni því er njólarætur eru sodnar í, en þeir sem til medala géta nád, brúka í þess stad Laxersalt, hvar af 3 lód, uppleyst í heitu vatni, er flestum fullordnum nógur skamtur, eda ønnur alþeckt opnandi medøl.

§. 5.

Hættulegri er sóttin ef henni fylgir takverkur í brjósti, annadhvert strax í byrjun hennar, eda hann kémur seirna, sem vex vid hóstann, og verdur opt óþolandi. Vid slíkum tøkum skal blód taka á handlegg, svo fljótt sem verdur, og batni ei takid strax tøluverdt vid eina blódtøku, má taka blód í annad sinn, einkum ef þad fyrsta blód sem tekid var, hefur á sér gula, þyckva og seiga skán, er þad kólnar, því þad eru merki til, ad takid er því megnara og hættulegra, sem sú gula blódskán, er seigari og þyckvari; má eptir blódríki, og kroptum hins sjúka, ítreka blódtøkuna 2ar eda 3ar, allt eptir sem takinu linar, og blódinu er varid, sem adgætist þegar þad kólnar.

§. 6.

Sumir fá bólgu med stíngverkjum innaní hálsinn, svo þeir géta ei rent nidur, þeim skal og

blóð taka á handlegg einusinni eða optar, eptir því sem hálsbólgunni er varið, og eptir því hvað þick og seig blóðskánin er. Sama er að seigja um mjøg mikinn hlustarverk, er stundum gétur orðið hættulegur, og er þá varlegra að taka blóð við honum.

Þess má og géta: að vanalegt er, að láta blæða hérum bil pela í hvert sinn á fullorðnum, þó má, ef blóðríkum manni er tekið blóð í fyrsta sinni, við mjøg sáru taki, vel láta blæða, framt að hálfum øðrum pela, því þar við linast stundum takið svo mikið, að ecki þarf optar blóð að taka. Ef úngs língum er blóð tekið, verður það að vera minna, eptir aldri þeirra.

## §. 7.

Linist ecki takverkur að fullu eptir eina eður fleiri blóðtøkur, má leggja spanskflugna-plástur, annaðhvert á þann stað hvar takið er, ef það er undir annari hverri síðu, eða á utanverðann upphandlegg, á þeirri hlið er takið er, þó skal aldrei leggja spanskflugna-plástur, rétt yfir þann stað, á vinstri síðu, hvar hjartað finnst slá undir, heldur annaðhvert utan á síðuna, eða upp undir viðbeinið, ef verkurinn er þar, en sé hann í miðju brjósti, má leggja hann milli herðarbladanna, eða þar á

bakinu, sem nálægast er verkinum; á hægri hlidinni má allstadar leggja plásturinn hvar verkurinn er undir. Yfir höfud er þó varúdarverdt: ad aldrei sé spanskflugna-plástur lagdur á takverk í brjósti, nema hann ádur sé linadur vordin vid blódtöku, eda ad blód hafi tekid verid, og hafi blódid ecki haft þá gulu, seigu himnu sem nefnd er í § 5; því ef blódid er kaldt, náttúrlega raudt ad lit ofaná, er þad merki til ad fleiri blódtökur gagna ecki vid þesshátttar verk, og má þá strax brúka spanskflugna-plásturinn, því þá er verkurinn annarar artar—ɔ: *rhevmatismus* eda *rhevmatalgia*—hvar vid blódtakan gagnar minna.

§. 8.

Sé blód tekid vid hálsbólgu, hvar vid hún linar nockud, en batnar ei til fulls, er gott ad leggja bakstur af volgum drabla med feiti í, eda adra þesskonar mýkjandi bakstra ad utanverdu vid hálsinn; ef bólga þar vid kémur útvortis í hálsinn, minkar hún gjarnan ad innanverdu, og er þad því góds merki; sama má og gjöra vid litla hálsbólgu er ecki hindrar ad nockru má nidur renna, og þarf þó ei altjend ad taka blód vid henni, ef hún fljótt linast vid bakstrinn.

Vid lítilfjörlegann eyrnaverk nægir optast ad væta ullar-þvegil í Kamfórudropum og stínga inní

eyrad, en verdi hann mjøg mikill, má taka blód eptir §. 6.

§. 9.

Á sumum legst sóttin mest í høfudid, fyrst med miklum þýngslum og verkjum í høfdi, sídan órádi, stundum med svefnleysi, og miklum órólegheitum í kroppnum; vid þessa er adgjætandi: hvert túngan er hrein eda óhrein, sé hún mikid óhrein med gulleitri skorpu, og sá veiki aldeilis frí af taki eda stíng í brjóstinu — og hafi ei mjiega haft tak eda blódspýtíng — er rádlegt ad taka einusinni uppsølumedal; sé túngan þarámóti hrein og raudleit, líkædin fljót, hørd og mjó, og sá veiki med ædi, svo hann heldst ei í rúminu, má taka einusinni blód á handlegg, sofni hann þá og verdi rólegri eptir blódtøkuna, má sídan géfa honum kjælandi, eda temprandi púlver, ef til er, 2 theskeidar hvern eiktartíma, og sé þá blódhlaupid náttúrlega raudt ofan, þarf ei ad taka optar blód; sé þad þarámóti med þykkri og seigri skán, gulleitri ad lit, má ítreka blódtøkuna, eins og ádur er sagt um tak í brjóstinu; hafi túngan þarámóti verid óhrein, og uppsøluvatn brúkad, sofnar sá veiki optar eptir uppsøluna, en batni ekki høfudverkurinn þar vid, má

leggja spanskflugna-plástur aptaná báda kálfana nedantil, sem plagar ad létta høfudþýngslin; samslags plástra má og leggja aptaná kálfana á þeim, er hafa þessconar høfudþýngsli, er orsaka þeim mikinn og lángvinnan svefn.

Vid alla þá er veikir eru, er adgjætandi: ad þeir hafi hægdir gódar til bakssins, má þar til best brúka stólpípu, hvar ecki verdur ødrum hægt opnandi medølum nád, og ætti aldrei ad lída fleiri enn 2 dægur milli þess sjúklíngurinn feingi þær.

## §. 10.

Nockrir þjást mest af brjóstþýngslum og mædi sem eykst vid hóstakøstin, án þess þeir þar vid fái tøluverda verki, edur neina fasta stíngi, en stundum nockur høfudþýngsli; hafi þessir mjøg óhreina túngu, og hafi ei ádur brjóstveikir verid, eda blódspýting haft, er þeim betra ad brúka í fyrstu uppsølumedal, eda ef þeim heilbrigdum hættir vid hardlífi, meiga þeir einsvel brúka eitt Laxermedal, sjá §. 4.

Sé uppgángur tøluverdur frá brjóstinu, verda þvílík brjóstþýngsli skjaldan hættuleg ýngra fólki, má og vid þeim leggja spanskflugur utaná báda upphandleggina, hvarvid þeim nockud plagar ad létta, þessum er og gott ad halda sér í rúminu medan

þeir eru verstir, drecka jafnadarlega heitt, hvar vid er ætlad til þeir svitni, ef þeir undireins þekja sig vel í klædum, því tølnverdur sviti, léttir gjarnan þesskonar brjóstþýngslum.

§. 11.

Adrir klaga mest yfir hitaseidíngi í kroppnum, og miklum beinverkjum um allann líkamann, þessum er og hollt ad svitna med því, ad drecka opt volga drycki, og ef þeir géta feingid temprandi kamfóru-púlver (ɔ: *pulvis temperans champhoratus*) vid ad brúka þar af 1 eda 2 theskeidar í einu, hérumbil hvern eiktartíma, sem tekid er inn í matspæni af vatni. Sé túnga þeirra óhrein, med gulleitri, eda nýøg þyckri hvítri skorpu, meiga þeir selja upp einusinni eda ad ødrum kosti, brúka eitt Laxermedal.

§. 12.

Þeir sem þjást mest af sífeldum hósta, án þess þeir hafi takverk med, batnar opt nockud vid ad svitna mikid, á sama hátt sem ádur er sagt, og sé uppgángur mikill med hóstanum, meiga þeir ecki vel án hans vera, því annars vaxa þýngsli fyrir brjóstinu, af slímhroda er þar safnast fyrir, ef hóstinn er minni

enn þarf, til þess ad uppgángur frá brjóstinu vidhaldist.

Gángi þarámóti lítid eda ekért upp frá brjóstinu med hóstanum, má lina hann ef verdur, hvar til best þénar brjóstpúlver það er samanstendur af sikri, og einn edur tveimur grønum—byggkorna þýngd—af *opio* sem optast þeir einir géta feingid er ná til læknira, enda þarf optast læknirsreglur fyrir hversu sterk þau skuli vera, og hversu opt brúkast eptir hins veika aldri og ásigkomulagi.

Ef takverkur vidheldst í brjóstinu, eptir ad tekid er blód, eftir §. 5. sem espast og vestnar vid þrálát hósta-køst, hefi eg med heppni brúkad *Mercurial-pulver* med *opio*, sem ogsvo þeir einir géta feingid er ná til læknira. Pad samstendur

af: *Mercurii dulc: gr: XII.*
*Opii puri: gr: X.*
*Gummi Arab: gr: XIV.*
*Sachari albi: ℨI.*
*exacte misce, divide in VI. pulveres æqvales.*

Af þessum smá púlverskømtum, má gésa fullordnum inn í vatni, einn skamt hvern eiktartíma, hvar vid hóstinn og verkurinn optast linar svo fljótt, ad sjaldan þarf ad brúka fleiri enn 6 smá púlver, en þar slík medøl eckj er ad fá nema hjá læknirum,

er best í hvert sinn ad fá reglur um brúkun þeirra, og alla þaradlútandi medferd.

§. 13.

Af því eg hefi opt ádur gétid um brúkun uppsølumedala, vil eg stuttlega nefna þau tilfelli hvar þau skal varast ad brúka. Ólèttum konum og þeim er rètt nýlega hafa børn alid, skyldi aldrei géfa uppsølumedal, ecki heldur þeim sem hafa sárann stíng eda takverk, hvert heldur er í brjósti eda nedar í lisinn, eckí heldur þeim er hafa blódspýtíng, edur hafa nýlega haft hann, því allir þessir géta haft mikinn skada og heilsu- eda líf-tjón af sterkri uppsølu, þó gét eg ei neitad, ad læknirar stundum í hásskalegum tilfellum máské brúka uppsølumedal í einhverjum af þessum kríngumstædum, en þad yrdi bædi oflángt hèr ad lýsa náqvæmlega, hversu sjúkdóminum þá mætti vera varid, enda er víssast fyrir alþýdu, ad halda sèr vid þessa reglu, aldrei ad géfa neinum þessara uppsølumedal, án læknirs vitundar og ráda.

§. 14.

Fáeinir hafa, í byrjun sóttarinnar feingid megn uppkøst, sem þó optast minka vid ad drecka kallt vatn, adrir hafa nidurgáng, sem ecki er verdt ad stoppa, sé hann ei því meiri, sem mjøg skjaldan hefur verid í þess-

ari sótt; vid honum er og gott ad drecka kaldt vatn, en skyldi meiri medala vidþurfa vid þessi tilfelli, sefast hvert um sig gjarnan vid ad brúka lítid *opium*, edur nockra svefndropa — 12 til 20 dropa 3ja hvern tíma—jafnframt køldu vatni.

§. 15.

Þegar sóttin er ad mestu bøtnud, hafa sumir þó um nockurn tíma ymsar leyfar hennar eptirleidis, svo sem lángvarandi máttleysi og linleika í líkamanum, bjúg í fótum, og heyrnardeysu. Máttleysid minkar gjarnast af sjálfu sér þegar sóttin er í afrénun, vid hentugt matlísi og adhjúkrun, þó þad á stundum gángi nockud seint.

Vid bjúg í fótum, er gott ad drecka af enirberjum, sem ádur eru vel þurkud og mulin, annadhvet sem thegrasi, vid ad hella 1 mørk sjódandi vatns, á 2 lód þeirra í einu, láta svo standa um stund, og drecka þegar kalt, eda mátulega kalt er ordid, ellegar vid ad sjóda þau í katli sem Kaffe, láta svo seydid kólna á þeim, og drecka sídan er þad er kalt ordid, þad er þvagleysandi og eydir bjúg og vatnssýki. Vid heyrnardeysu er vidhelst eptir sóttina, er gott ad leggja spanskflugnaplástur, bak vid þad eyra, er heyrnina hefur misst, eda aptan vid bædi, ef bædi eru daufheyrd.

§. 16.

Fyrir þá er eru í bata eptir sóttina, er athugaverdt: ad þeir, øllu fremur varist kulda, því þar vid

æsist opt hóstinn, og vesnar aptur að nýu, er því þá að aðgjæta allt hið sama sem nefnt er í §. 3. um að varast sóttina; einkum og sérdeilislega varðar um, að menn klæði sig vel, standi ei í votum fótklæðum, eða séu ei, í hið minnsta, votir til leingðar, ofþreyti sig ei á erfiði eða næturvökum og ofþýngi ecki magann, með að borða mjög þúnga fæðu, sem er reikt eða saltað kjöt, súrt skir, feitur mjólkurmatur, og hörð eða gömul fiskæti. Létta fæðu kalla menn þarámóti: mélvatns grauta, kálgrauta, nýan fisk og silúng soðin, fjallagrös, misu, og jafnvel þunnar kjötsúpur af nýu kjöti, ýmislegar grjónasúpur, og annann kornmat.

Á einstaka manni endar sóttin með viðvarandi laxering, sé hún ei fjarskamikil og verkjalítil skal ei flýta sér að stoppa hana, einkum ef brjóstþýngsli og hósti þar við eyðast, en vari slíkt mjög leingi og dragi magn úr þeim veika, má lækna hana með sundmögum soðnum í vatni, svo þeir verði vel límandi, og borðast þeir svo með litlu af smjöri; líka verkun hefir og vatn það, sundmagar eru límsoðnir í; líka má brúka sterkt seiði af sortulíngi sem meðal móti lífsýki ef það er jafnaðarlega druckið; Hrísgrjónagraut með rauðavíni í géta og þeir brúkað er það hafa.

§. 17.

Þótt hér séu nefnd öll þau helstu og hættulegustu tilfelli er fylgja þessari sótt, svoleiðis sem hún

hér hefir verid um hríd, géta bædi ýmisleg önnur uppákomid, eptir því sem hinna velku heilsufarl er varid, líka umbreytast opt þvílíkar sóttir, eptir sem þær færast yfir landid, verda á stundum miklu vægari þar, er þær koma seinast, enn þær voru í fyrstu, eda umbreytast svo, ad þær ad lokunum verda ad annarslags landfarsótt enn þær vóru í fyrstu, yrdi því ofláng og hartad ómögulegt, á litlum tíma, og í stuttu máli ad gjöra ráð fyrir öllum þeim einstaka tilfellum er fyrir kynnu ad koma, enda er og allra þeirra hér gétid, er optast og helst fylgja bædi þessari og ödrum Qvefsóttum, í hid minsta er skjaldgjæft ad þau tilfelli verdi hættuleg í þessskonar sótt, hverra hér ecki er gétid.

Reykjavík skrifad í Júlíó 1834.

J. Thorsteinsen.